ÖREIGAR ALLRA LANDA SAMEINIZT!
LIFI MARXISMINN-LENINISMINN-HUGSUN MAÓS TSE TUNGS!

VERKFALLSBLAÐ

Stéttabaráttan

Útg. Kommúnistasamtökin marxistar-leninistar 2. tbl. 5. árg. 18. febrúar 1976.

Áskriftasíminn er 27810

Hafið samband við ritstjórnina í síma 27810 og 27115

Ritstj. og ábm. Hjálmtýr Heiðdal

# Gerum verkalýðsfélögin að baráttutækjum!

Undanfarið ár hefur verið ár gegndarlausra kjaraskerðinga. Dýpkandi kreppa auðvaldsins hefur orsakað samdrátt í framleiðslu og minnkandi eftirspurn, og til að vernda gróða sinn grípur auðvaldið til þess ráðs að velta kreppunni yfir á herðar verkalýðs og vinnandi alþýðu. Til þess notar auðvaldið þúsund og eina aðferð. Gengið er fellt æ ofaní æ, opinber þjónusta er hækkuð, skattbyrðar almennings eru þyngdar, skriðu verðhækkana er hleypt af stað, og atvinnuleysi heldur innreið sína. Árið 1975 var verðbólgan á Íslandi um 50% meðan launin hækkuðu aðeins um ca 12%. Til að falsa ástandið hefur ríkisvaldið vægðarlaust falsað vísitöluna svo að ekki er til neinn varanlegur viðmiðunarpunktur.

Til að ná sama kaupmætti og í mars 1974 þyrftu verkamannalaun að hækka um minnst 40%, en þó slík hækkun næði fram að ganga væri það ekki nóg til að dagvinna nægði fyrir framfæri.

1974 og 1975 var eftir- og næturvinna að meðaltali um 40% af heildartekjum verkafólks, og í dag þegar kreppan dýpkar, minnkar yfirvinna stöðugt, því þannig getur auðvaldið framið stórfellda kjaraskerðingu án þess að brjóta samninga.

## Hver á sök á kreppunni?

Hver stjórnmála- og fjármálamaðurinn eftir annan hefur kveðið sér hljóðs í fjölmiðlum undanfarið og lýst því yfir að "við höfum lifað of hátt, og því er kominn tími til að við herðum sultarólina." En hverjir eru þessir "við"? Hefur vinnandi alþýða Íslands lifað of hátt? Nei. Íslensk alþýða hefur einungis notað laun sín til að framfæra sér en það er ekki um það að ræða að hún hafi lifað of hátt. Undanfarin ár hafa verið ár mikillar vinnu og strits og laun þau er alþýðufólk fékk hafa ekki orsakað kreppuna.

Þeir sem bera sök á kreppunni eru atvinnurekendur og braskarar. Það eru þeir sem hafa ofboðið efnahag landsins með kröfum sínum, braski og stöðugri gróðaleit. Það voru þeir sem kröfðust takmarkalauss frelsis til innflutnings, og þannig bröskuðu þeir með gjaldeyrinn. Það voru þeir sem veltu af stað skriðu verðhækkana með offjárfestingum í iðnaði. Það voru þeir sem felldu gengið til að græða meira án tillits til hversu þeir skertu kjör almennings. Og það eru þeir sem í dag braska með fiskveiðilögsögu Íslands, nota hana eins og hvern anna gjaldmiðil í tilraunum sínum til að græða meira. Með samningum sínum við þjóðverja og samningsmakki sínu við breta hafa þeir valið eftir tvo valkosti: Annað hvort gegndarlausa rányrkju og eyðingu fiskistofna eða það að vinda verði stóran hluta flotans uppað, sem þýðir stórfellt atvinnuleysi. Auðvaldið sinnir engu öðru en að tryggja gróða sinn sem best, og það skirrist ekki við að stofna afkomu og lífi íslenskrar alþýðu í stórhættu. Það er auðvaldið sem ber ábyrgð á kreppunni.

## Bandamenn auðvaldsins

Tryggustu bandamenn auðvaldsins eru þeir menn sem verja kjaraskerðingarnar og taka ábyrga afstöðu til þeirra. Slíkir menn sitja við stjórn í ASÍ. Þeir hafa marglýst því yfir, að "ekki sé raunhæft að reyna að fá að fullu bætta þá kjaraskerðingu sem framin hefur verið." Þeir hafa marglýst yfir að "sökum slæmrar stöðu þjóðabúsins sé ekki raunhæft að fara fram á miklar launahækkanir í krónum - það verði að gera aðrar hliðarráðstafanir." Og starf þeirra ber sömu merki og yfirlýsingarnar. ASÍ hefur sett samningamálin í sáttanefnd og boðað vinnustöðvun án þess að leggja fram kaupkröfur. Þær kröfur sem ASÍ hefur lagt fram eru flestar sérkröfur sem fjalla um aðbúnað og lagfæringar á vinnutíma, eftirvinnu o.þ.h., en krafa dagsins, kaupkrafa hefur ekki verið lögð fram. Þó margar af kröfum ASÍ séu góðra gjalda verðar eru þær aukaatriði þegar hinar gegndarlausu kjaraskerðingar eru hafðar í huga, og nauðsyn þess að ná hærri kaupmætti.

ASÍ-forystan er margflækt inn í brask og svikanet auðvaldsins, og hún hefur gert hagsmuni þess að hagsmunum sínum. Þetta sést best á Alþýðubankamálinu. Þar er upplýst að fjármunir alþýðufólks eru nýttir til að fjármagna brask einstakra auðmanna meðan útlán til verkafólks eru skorin við nögl. Og þegar braskið er að kollsigla Alþýðubankanum bætir ASÍ-forystan enn á svívirðu sína með því að lýsa því yfir að sjóðir verkalýðshreyfingar verði notaðir til að baktryggja bankann.

Með slíka menn í broddi fylkingar vinnst engin orrusta.

## Gerum stéttarfélögin að baráttutækjum!

Eins og kjarabaráttan er háð í dag, er verkafólk ekki virkjað í baráttunni, heldur haldið utan við hana. Verkalýðsforystan og atvinnurekendur makka að baki læstra skrifstofudyra þar sem þeir eru einráðir. Verkafólk er ekki einu sinni spurt um hvaða kröfur eigi að setja fram eða hvernig orrustan skuli háð. Í samningunum núna ákvað miðstjórnarfundur ASÍ hvaða kröfur skyldu lagðar fram en verkafólk í félögunum fékk engu um það ráðið. Það var búið að halda 19 samningafundi og málin komin til sáttasemjara og búið að skipa sáttanefnd áður en ASÍ-forystan sá ástæðu til að leita eftir umboði stéttarfélaganna til að semja. Innan stéttarfélaganna hefur lýðræðið verið stórlega skert og raunverulega komið í veg fyrir að verkafólk fái að tjá sig um sín mál. ASÍ-forystan tekur algerlega ábyrga afstöðu til stjórnleysis auðvaldsframleiðslunnar og hagar baráttuaðferðum sínum eftir því. Það er vegna vinnubragða hennar sem verkalýðshreyfingunni hefur hnignað og hún er hætt að vera raunverulegur samtengjari fyrir baráttu verkalýðsins. Hin aukna miðstýring hefur leitt til þess að þau verkalýðsfélög sem vildu standa upp til baráttu og virkja félagsmenn sína hafa mætt ASÍ-forystunni í herbúðum auðvaldsins. Eðlilega hefur þetta leitt til þess að virkni félagsmanna stéttarfélaganna hefur verið svæfð, fundarsókn fer stöðugt minnkandi og fjöldi verkafólks er hætt að líta á verkalýðsfélögin sem baráttuvettvang. Þess vegna er nauðsynlegt að berjast gegn aukinni miðstýringu og auknum völdum ASÍ-forystunnar, en fyrir því að verkalýðsbaráttan verði færð út af skrifstofunum og inná vinnustaðina og verkalýðsfélögin þar sem hægt er að virkja verkafólk til baráttu fyrir bættum kjörum. Það verður að endurreisa verkalýðsfélögin sem virk baráttutæki.

## Gegn stéttasamvinnu - eining á grundvelli stéttabaráttu!

Í ljósi kjaraskerðinganna setjum við fram eftirfarandi kröfur:

Lífvænleg laun fyrir átta stunda dagvinnu! Þessi krafa er brýnni í dag en nokkru sinni fyrr, því með því að svipta verkafólk yfirvinnu er hægt að fremja stórfellda kjaraskerðingu án þess að brjóta samninga. Þetta þýðir að laun verða að hækka í því sem næst 120 þúsund krónur á mánuði fyrir dagvinnuna.

Vísitölubinding launa! Gera verður nýjan raunhæfan vísitölugrundvöll sem launin eru bundin. Þannig verður að reikna út vísitöluna minnst mánaðarlega og laun hækki sjálfkrafa ef vísitalan hækkar.

Gegn atvinnuleysi og verðbólgu - látum auðvaldið borga! Verkafólk ber enga ábyrgð á kreppunni, og það á ekki að borga hana. Við krefjumst þess að auðvaldið verði skattað og komið í veg fyrir hina

Framhald hinummegin.

# Af verkfallsvaktinni

Í gær, 17/2, stöðvuðu verkfallsverðir frá Dagsbrún alla afgreiðslu hjá grænmetisverslun landbúnaðarins. Þegar komið var á staðinn voru kaupmenn í bænum að ferma bíla sína af kartöflum og öðru grænmeti ásamt ríkisstarfsmönnum. Þetta töldum við réttilega vera í verkahring dagsbrúnarmanna, og var því grænmetisversluninni lokað.

## Dæmi um lítinn stéttarþroska

Það er alvarlegur hlutur þegar verkamenn sem eiga að vera í verkfalli láta undan þrýstingi atvinnurekendanna, og vinna í laumi. Við rákumst á eitt slíkt tilfelli í gær, þriðjudag, þar sem tveir verkamenn sem tilheyra Dagsbrún voru við vinnu í múrverki. Við gerðum þeim grein fyrir hversu alvarlegur hlutur þetta væri og lofuðu þeir að hætta vinnu. Svona hefur stéttarmeðvitund verkamanna hnignað, þeir hlógu bara og slógu þessu upp í grín.

Nokkur verkalýðsfélög hafa tekið á leigu húsnæði að Laufásvegi 8 fyrir sameiginlega verkfallsvörslu. Við sem vorum á vakt á þriðjudagin teljum þetta húsnæði vera allt of lítið, ef verkfallið heldur eitthvað áfram. Húsnæðið er gömul íbúð sem rúmar í hæsta lagi 30 - 40 manns, en búast má við mun meiri fjölda í verkfallsvörslu.

Við hleruðum hjá trésmiðum á vaktinni í gær að full vinna hefði verið, þá um morguninn, í húsasmiðjunni við Súðavog. Þar áttu í hlut trésmiðir og var öll vinna stöðvuð. Eigandinn, Snorri, á að auki mikið af íbúðarhúsnæði sem hann leigir á sanngjarnan hátt til starfsmanna sinna og annarra, og er hætt við því að þarna hafi hann aðstöðu til að pressa á verkamenn og hafa öll þeirra ráð í hendi sér.

Tveir af verkfallsvakt.

# Höfum við efni á að fara í verkfall

Í sambandi við komandi kjaradeilu er því meðal annars haldið fram að þrátt fyrir um 30% kjaraskerðingu á einu ári, hafi verkafólk ekki efni á því að fara í verkfall. Og að það muni vera miklu happadrýgra að semja strax um það sem hægt er að fá án verkfalla. Þeir sem eru helstu boðberar þessara kenninga eru verkalýðsforystan með aðstoð atvinnurekenda sem bæta við, að atvinnuvegirnir þoli jú engar kauphækkanir. Auk þess taka atvinnupólitíkusar þingflokkanna virkan þátt í þessum áróðri með aðstoð ríkisfjölmiðlanna og hinnar "frjálsu blaðamennsku. Þó að þessir launuðu útsendarar auðmannastéttarinnar hafi ekkert fyrir sér í því að það borgi sig ekki fyrir verkafólk að fara í verkfall, annað en að það þýði tap fyrir atvinnurekendurna, taka margir verkamenn þetta sem gild rök. Það er því nauðsynlegt að við skoðum þetta dæmi vandlega, eingöngu út frá hagsmunum verkamannsins. Í töflunni hér fyrir neðan eru tekin nokkur dæmi um hugsanleg mánaðarlaun og í dálkunum þar fyrir aftan er reiknað út (reyndar mjög gróflega, en þó út frá sömu forsendum, svo það skiptir ekki höfuðmáli) hvað laun myndu hækka.

Á þessari töflu sjáum við, að ef aðeins eru skoðaðir hagsmunir verkalýðsins í verkföllum, þá ber verkafólk skarðan hlut frá borði eftir eins mánaðar verkfall og 20% kauphækkun, ef miðað er við að samþykkja tillögu sáttanefndar nú. Og það er alls ekki fjarstætt að hugsa sér að nú mætti knýja fram enn meiri kjarabætur, jafnvel 40 til 50% í mánaðarverkfalli. Þetta má styðja með rökum eins og þeim að hálaunamenn eins og bankastjórar hafa fengið 40% kauphækkun án nokkurra verkfalla. Það er því ástæðulaust að ætla annað en að verkafólk geti að minnsta kosti náð því sama með mánaðarverkfalli, hvað svo sem áróðursmaskína auðvaldsins kann um það að segja. Það er því enginn vafi á því að það borgar sig fyrir verkafólk að fara út í baráttu. Við höfum engu að tapa en allt að vinna.

| Mánaðarlaun í þús. kr. | óbreytt árslaun í 12 mán í þús. kr | árslaun í 12 mán skv. till. sáttan. | árslaun í 11 mán 20% kaup hækkun | 30% | 40% | 50% |
|---|---|---|---|---|---|---|
| 50 | 600 | 656 | 660 | 715 | 770 | 825 |
| 60 | 720 | 787 | 792 | 858 | 924 | 990 |
| 70 | 840 | 918 | 924 | 1000 | 1078 | 1155 |
| 80 | 960 | 1049 | 1056 | 1144 | 1232 | 1320 |
| 90 | 1080 | 1180 | 1188 | 1287 | 1386 | 1485 |

Dálkur 1 sýnir mánaðarlaun eins og þau gætu. hugsanlega verið í dag.
Dálkur 2 sýnir mánaðarlaunin óbreytt í 12 mánuði, árslaun.
Dálkur 3 sýnir launahækkunina á ári (12 mán.) ef ekki verður farið í verkfall en gengið að tillögu sáttanefndar (4% 1. mars, 5% 1. júlí, 4% 1. okt.)
Dálkar 4, 5, 6 og 7 sýna aftur á móti 20, 30, 40 og 50% kauphækkun eftir mánaðar verkfall, þ.e.a.s. árslaun í aðeins ellefu mánuði.

# Áróðurinn gegn verkfallsbaráttunni

Öll áróðursmaskína auðvaldsins leggst á eitt þessa dagana. Boðskapurinn er: verkföll borga sig ekki - það er betra að semja. Og einnig er upplýst að ekki sé grundvöllur fyrir kjarabótum. En við höfum heyrt þetta allt áður - það er alltaf sami söngurinn af hálfu auðvaldsins. Auðvaldsblöðin reyna að sannfæra verkalýðinn um það að verðbólgan (þ.e. minnkandi kaupmáttur launa) sé afleiðing af hækkuðu kaupi. Þannig er allt komið í hring, kauphækkun er vísasta leiðin til kauplækkunar.

Þessi áróður er í gangi allan ársins hring, en aldrei er hann hærri og ákafari en í kringum hverja samninga. Hér eru nokkur sýnishorn (sum eru gömul, allt frá 1973 - en tónninn er sá sami):

"Það er alveg ljóst, að beinar kauphækkanir geta ekki orðið miklar að þessu sinni, ef takast á að draga enn meira úr hraða verðbólgunnar" (Vísir, 6.2. 76).

"..ef enn á ný verður róið á þau mið að semja um óraunhæfar kauphækkanir, sem ekki geta leitt til annars en vaxandi verðbólgu" (Mbl. 14.2. 76).

"Kjaraákvarðanir geta aðeins miðast við það að tryggja núverandi rauntekjur heimilanna og fulla atvinnu. Þetta verður best gert með því að ákveða nú hóflegar kjarabreytingar, sem virða þau takmörk , sem þjóðarbúinu eru sett, og stefna að því að draga úr verðbólgunni" (Áramótaáv. Geirs Hallgrímssonar 75/76). "Ekki grundvöllur fyrir almennum kjarabótum" (leiðari Mbl.) "Málið er nú aðeins það, að atvinnuvegirnir eru alls ekki aflögufærir. Það er búið að skipta kökunni" (Jón H. Bergs, form. VSÍ).

Það mætti taka hundruð slíkra dæma um þennan áróður, en við látum þetta nægja að sinni. Þessi áróður hefur þann tilgang eins og áður sagði að reyna að sannfæra verkalýðinn um að kjarabarátta sé vonlaus. En þessi söngur kemur ekki eingöngu frá auðvaldinu - innan verkalýðshreyfingarinnar eru menn sem hafa tekið sama pól í hæðina og kyrja sama sönginn. Þessir menn eru æðstu toppar ASÍ. Þeir ganga sjálfir fram í því að fá verkafólk til að fallast ár eftir ár á sömu smánarsamningana sem ekki færa neinar raunhæfar kjarabætur til verkafólksins. Þeir tala sjálfir um "verðbólgusamninga" og hafa fallist á breytingar á vísitölu á þeirri forsendu að "hagur þjóðarbúsins" sé svo og svo slæmur. Þeir hafa nefnilega tekið svokallaða ábyrga afstöðu. Enda stendur ekki á hrósinu: "Hinu má heldur ekki gleyma, að ábyrg viðhorf hafa í seinni tíð æ oftar orðið ofan á í stefnu íslenskra launþegasamtaka.. Þessi ábyrgð er mjög virðingarver og ánægjuleg" (Vísir 1972). "Hófleg og skynsamleg stefnumið ASÍ" (Tíminn jan. 1976).

Björn Jónsson, forseti ASÍ, hefur sjálfur lýst þeirri skoðun sinni "að kjaramálin séu óleysanleg með hefðbundnum aðferðum" (hefðbundnar aðferðir hljóta að teljast barátta, þ.á.m. verkföll). "Nú verður að beita öðrum aðferðum stjórnmálalegs eðlis, ef árangur á að nást" (viðtal í Alþ.bl. 18.11.75). Hverjar eru þessar stjórnmálalegu aðferðir? Hér á Björn ótvírætt við makk ASÍ-forystunnar við ríkisvaldið, það er hin ábyrga afstaða í verki. Hefðbundnar aðferðir í baráttu verkalýðsins eru aðferðir þar sem verkalýðurinn sameinast til átaka, í margs konar formi og þ.á.m. verkföll.

Hefur þessi áróður auðvaldsins og ASÍ-forystunnar haft áhrif á verkafólk? Tvímælalaust - það kemur víða fram, m.a. í dræmri fundasókn hjá verkalýðsfélögunum og almennu afskiptaleysi verkafólks af samtökum sínum. Gegn þessu verður að berjast, það verður að hefja áróður fyrir aukinni þátttöku verkafólks í kjarabaráttunni - það starf er einn liður í baráttunni fyrir því að endurreisa verkalýðsfélögin sem baráttutæki.

-/hh

Gerum verkalýðsfél. að baráttutækjum Framhald.

... störfelldu möguleika þess til skattsvika, s.s. í gegnum afskriftir. Skattsvik auðvaldsins eru greinileg ef t.d. haft er í huga að 432 fyrirtæki sem veltu 10.000 milljónum á síðasta ári greiddu ekki eyri í tekjuskatt.

Það er skýlaus krafa alls verkafólks að atvinnuöryggi þess verði tryggt og komið verði í veg fyrir að auðvaldið velti kreppunni yfir á herðar verkalýðsins með fjöldauppsögnum og lokunum atvinnufyrirtækja.

Afnám söluskatts af matvælum og afnám tekjuskatts af þurftarlaunum! Skattar eru eitt form arðráns auðvaldsins, þar sem alþýðan er látin borga braskið. Krafan um afnám skatta af þurftarlaunum og afnám söluskatts af nauðsynjavörum er þess brýnni því auðvaldið hefur allt af haft lag á að blóðmjólka verkafólk með því að bæta við söluskatts stigi eða hækka beinu skattana.

Baratttuna í komandi samningum skulum við heyja undir vígorðunum: Búumst til baráttu - annars verðum við yfirunnir! og Treystum ekki á verkalýðsforystuna - hún mun svíkja okkur!

Það getur enginn barist fyrir okkur nema við sjálfir og viljum við öfluga baráttu gegn kjaraskerðingunum verðum við að rísa upp til baráttu þar sem hver baráttufús verkamaður og verkakona er virkjuð til baráttu fyrir lífsviðurværi sínu!

Jafn réttur kynjanna til starfs og launa! - 3ja mánaða fæðingarorlof á fullum launum! Mikið skortir á að jafnrétti sé milli kynjanna til starfs og launa. Verkakonur vinna lægst launuðu störfin og búa við minnst atvinnuöryggi. Í fiskiðnaði vinnur stór hópur kvenna sem fær smánarlaun og hægt er að "senda heim" næstum því hvenær sem auðvaldinu þóknast og svipta þær þannig möguleikanum til að framfæra sér. Nokkuð hefur áunnist í þá átt að tryggja atvinnuöryggi þeirra en mikið skortir á að þær búi við sömu kjör og aðrir hvað varðar atvinnuöryggi og laun. Tryggja verður verkakonum minnst 3ja mánaða fæðingarorlof á fullum launum og koma í veg fyrir geðþóttauppsagnir.

Gegn fyrirhugaðri endurskoðun á vinnulöggjöfinni! Í bígerð er endurskoðun á vinnulöggjöfinni sem lögbinda á miðstýringu verkalýðshreyfingarinnar, koma á lögbundnu kerfi heildarsamninga, og stórlega skerða verkfallsréttinn. Þessar breytingar fela í sér skert lýðræði innan fagfélaganna og skerta möguleika verkafólks á að berjast fyrir bættum kjörum.

Stéttabaráttan kemur nú út í "verkfallsbúningi" - ætlun ritstjórnar er að gefa blaðið út í þessu formi á meðan verkfallinu stendur. Blaðið mun koma út allt að því daglega eftir mati ritstjórnar hverju sinni - þess vegna er mikilvægt að verkafólk nýti þennan vettvang til að koma á framfæri fréttum og athugasemdum um gang baráttunnar hvaðanæva af landinu. Blaðinu verður dreift ókeypist meðal verkafólks á verkfallsvöktum og víðar jafnframt því sem það er sent áskrifendum.

Við skorum á verkafólk að skrifa í blaðið og taka þátt í dreifingu þess!

Sími ritstjórnar er 27810 og 27115.